# Konglegur
# Urskurdur

uppá

þá so kölludu almennilegu Islendsku Ansøgning til Kongsins,

um

utvikkud Høndlunar Friheit m. m.

yfirvøldum

hærri og lægri Stiettar á Islandi til minningar.

Prentadur i Kaupmannahøfn 1799.

Vjer Christján Sjøundi, af Guds Náð Kongur til Danmerkur og Norvegs, Vinda og Gauta, Hertogi í Slesvíg, Holsetulandi, Stórmæri, Péttmerski og Aldinborg.

Gjørum vitanlegt: Með því Vér eins og Vorir háloflegu Forfeður, Danmerkur og Norvegs Kóngar, høfum æíð haft Landsføðurlega umhyggju fyrir Vorum kjæru og truú Undirsátum á Voru landi Íslandi, og með kryptuguslu meðølum, já, með því að tilkosta telunverðu og leggja í sølurnar af Ríkisins inntektum, leitast við að efla þeirra hamingju; þá høfum Ver, þessara orsaka vegna, æíð heyrt með athygli þessara Vorra Undirsáta umqvartánir, og að því leiti, sem hinar sømu hafa verið álitnar grundaðar, ráðið bót á því, sem klagað var yfir að á bristi. Þess vegna høfum Vér skilmerkilega látið leiða Oss fyrir sjónir þau kløgumál, sem seinast iñkomu frá fyrrnefndu Voru landi Íslandi, nefnilega: frá Austur- og Norður-Amtinu undir 29da Aprílie næstliðins árs, frá Vestur-Amtinu 30ta Aug., og frá Suður-Amtinu 6ta Dec. s. á., øll orðrétt samhljóða; hérað-

auki er um sømu mundir frá Vestur-Amtinu iñsend ein eldri kløgun, nockud ólíkrar meiningar. Allar þessar klaganir og tilmæli, sem þar á eru grundud, bera fyrir sig vidkomandi Amtmanna erkleringar og tilløgur, ad frátekinni þeirri, sem kom frá sudur Amtinu, sem Vorum Stiptamtmanni Stephensen hefir þókt íhugunarverdt ad mæla fyrir, en þar hjá vísad til þeirrar útlistunar, sem hañ, þañ 15da Sept. 1795 og 29da Febr. nærstlidid ár, sendi til Vors Rentukammers, vidvíkjandi adskiljan. legum umqvørtunum, er til hans vóru sendar frá Embættis mønnum og ødrum fleirum. Allar þessar klaganir innihalda umqvørtun yfir núverandi høndlun á Islandi, sem Vér 1787 frá octroyeradri og monopoliskri, sem hún ádur var, umbreyttum til svo frírrar, ad allir Vorir Undirsátar bædi á Voru landi Islandi og í ødrum Vorum Løndum og Rikjum géta haft hlutdeild í sømu, allt til þess, ad bjargrædis-veganna uppsprettur, sem Islands náttúrlega ásigkomulag frambýdur, yrdu notadar med meiri framqvæmd eñ hingad til ad efla iñbyggjaranna velgengni yfir høfud. Þær áminustu umqvartanir, sem sendar eru af Stiptamtmannium til Vors Rentukammers, innihalda þessar eptirfylgjandi greinir:

1) Ad þeir høndlandi setji óbærilega lága prísa á landsins vørur, hvad gyldar sem

þær eru, og aptur á móti óskaplega há-
añ prís á sínar egiñ, þótt lakari væru.

2) Að mikill partur iñfluttrar vøru hafi verið skémður eða ónýtur.

3) Að stærsti brestur hafi verið á nauðsynja vørum, mjøli, járni, timbri og lóðar-strengjum.

4) Að peníngar hafi verið ófáanlegir fyrir iñbyggjarana hjá þeim høndlandi fyrir landsins vørur, eður og seldir með mikilli framyfirgjøf, hvarámót

5) Troðið hafi verið uppá iñbyggjarana fyrir þeirra góðu vørur, brennuvíni, tóbaki og øðrum vørum, er til óhófs horft hafi.

6) Að þeir høndlandi hafi gjørt úrkast af þeim íslendska fiski, er ecki hafi svo þúngur verið, sem þeir hafi viljað.

7) Að þeir hafi ásælst iñbyggjarana í mælir og vigt.

Í þeim ámiñstu samhljóða kløgunum, iñsendum frá 3ür Ømtum, útmálast núverandi høndlun sem ófrí, máttvana, eyðileggjandi og óbærileg; með þessum ítrekuðu nefnum, er lángt Kløgunar-skrif samantekið, hvørs høfuð-inni-hald að øllu leiti megi heimfærast til ámiñstra umqvørtunar pósta. Þar fyrir utan séu þær ákjærur, er í því gjørast móti þeim høndlandi,

leið-

leiddar í ljós med sinnisins ofmikilli ákéfd og beiskju, þaradauki hafa þeir, sem klögudu, dirst ad láta þeirra skrif á prent útgánga, í því skyni, ad þeir med þessu móti gjætu ordid vissir um, ad þad mætti Oss ad fullu og öllu kunnugt verda. Vor sannajarna misþóknan yfir tjedu fyrirtæki, jókst, þá Vér sáum allar klaganirnar undirskrifadar af Verum verdslegu og geistlegu Embættis-mönnum, nefnilega: Sýslumönnum og Próféstum, hverra skylda var ad leidrétta einfaldañ almúga, og heldi hañ hafst grund-valladar áljærur, þá ad styrkja hañ til ad frambera fær þeim til sóma. En þetta skrif þarámóti, sem samantekid er í Austur- og Nordur-Amtinu, af hvörju teknar eru sam-hljóda útskriftir, hadan radstafadar og eptir því skrifadar í hinum Ömtunum, ber þeckjan-legt merki, vegna sinnar samhljódunar, um samantekid rád vidkomenda, til ad fullvissa sig um afdrif þessarar sakar, vegna fjölda hlutad-egenda. Ad sleptu öllu því óreglulega og hneix-lanlega í klaganauna formi edur framsetníngu, hefir Oss þókt svo mikid varid í tafmarkid (til hvörs hér med var siktad), ad Vér hid umhyg-gjusamasta höfum ransakad sérhvert umqvartu-nar efni og náqvæmlega yfirvegad um hvad hefir sókt verid, og fyrirfram sett, svo sem medal til ad ráda bót á þeim breftum, sem um er gétid, og eru innifalin í eptirfylgjandi:

1) Ad ein fullkomin Fríhøndlan vid allar framañdi þiódir mætti leifast Islands iñbyggjurum, samt ad þeir fedgju styrk til ad færa siálfir activ høndlun.

2) Ad ein Kommissjón sé annadhvert í Islandi edur Kaupmannahøfn af þeim Embættis-mønum, sem landid útvelur, sett til ad yfirvega þess naudsynjar.

3) Ad opinber upplýsíng sé géfin um Islands públikkassa ásigkomulag.

Bædi uppá klaganirnar og þá umbednu tillátsemi og framqvæmd í þessari sek, géfum Vér hér med Vora allranáduguftu úrlausn, sem fylgir: hvad vidvíkur þeim fyrsta kløgunar pósti, nefnilega: ad þeir høndlandi setji oflága prísa á íslendskar vørur og ofháa á þær iñfluttu, er þetta ei allskostar satt, eins og þad stendur ad nockru leiti móti fríhøndlunarinnar náttúru, ad vøru prísar verdi med valdi hækkadir og lækkadir.

I þeim tídindum frá Islandi, sem uppá Embættis vegna eru til Vor send, er þad sýnt og medkeñt, ad frá fríhøndlunarinnar byrjuñ og til 1793 árs loka hafi høndlunin verid betri fyrir landid eñ nockru sinni fyrri. Hér er þá hid fullkomnasta vitni um, ad klaganirnar eru ógrundadar allt til þessa tíma-

bils,

bils, líka géfur sú teluverða fólks=fjelgun á sídan umliðnum árum Oss einnin fullkomnustu vissu um, að jafnvel þó hondlunin á þessum seinustu tímum hafi verið hörð fyrir landsins innbyggiara, héfir hún þó ei gétað verið svo eiðileggjande, sem í klögununum er tilfekið. Þeir sáheyrðu prísar, sem settir vóru uppá innlendar vörur í Íslandi til 1793 vegna fjölda hondlunar=manna, nefnilega, tuttugu og nockrir ríkisdalir, ja, allt til þriátíu ríkisdala, er géfnir vóru fyrir eitt Skippund af herdum fiski, hafa sídan leidt illt eptir sig fyrir landið, þar þeir hondlandi, vegna þess prísinn á þeim íslendsku vörum læckaði í skyndi á öllum hondlunar=stöðum, liðu stórann skaða á þeim vörum, er þeir höfðu keypt dýrum dómum; hvörs vegna einir og aðrir af þeim orsökuðust til fyrst, um sinn að stansa eda þá minka hondlun sína á Íslandi. Framvegis viljum Vér til klagananna 1ta og 2ars pósts yfir innfluttrar vöru ógylduglelka, hafa vísað þ im klagandi til þess, sem Vér í Vorri Fororðningu um Fríhöndlunina af 13da Júní 1787. Kap 2. §. 14. hönn géfið til kynna, nefnilega: "Að eptir "Fríhöndlunarinnar náttúru, gæti engin al"menileg klögun hafst stað yfir slæmum vörum "eda háum prísum." Sama er og að segja um þann 6ta póst, hvar klagað er yfir, að af íslendskum vörum sé gjört úrkast. Landinu

liggur

liggur og svo mjøg mikid á því, finnar egin gagnsemdar vegna, ad engar nema gódar. Kaupmañs vörur flytjist út frá því, þar einúngis hér med verdur prís og útaengilegleika á vörunum haldid vid makt á framandi høndlunar plátsum.

Allteins ógrundada álítum Vér kløgunina í þeim 5ta pósti, ad neydt sé uppá iñbyggjarana brennuvíni, tóbaki og ødru glíngri, þar engiñ verdur neyddur til þess ad taka á móti því, er hañ skeytir ei um, og þar fyrir utan mundi þad verda forgéfins med løgum ad fastsetja reglur eda takmørk því, sem í þessum pósti er yfir klagad.

Í tilliti til þeirrar í þeim 4da pósti yfirkløgdu peninga-eklu hjá Kaupmønnunum, gétum Vér ei heldur komid ødru til leidar eñ advara þá høndlandi, ad hvørr þeirra, vegna þeirra egiñ ávinníngs, sjái sig byrgañ med svó stórri peníaga summu, er passa mætti til hans høndlunar; því ad fyrirskrifa reglur hér í og leysa ad ransaka hvørt eptir þeim sé lifad, kjæmi enu ødru til leidar eñ yfirgángi og kløgunum hér yfir, og yrdi eitt skadlegt þvíngunar band á høndluninni. Annars er þad adgjætandi, ad svo miklu leiti, sem þessi kløgun er almennileg, ad svo framarlega, sem hún í sjálfri sér er señ, þá er hún óbrækt vitni um þad, ad høndlunin er Íslandi til

ábata,

ábata, þar ed landsins íbbyggendur, ef þeir töpudu vid höndlunina, kynnu ei ad ega peninga inniſtandandi hjá Kaupmönnunum, heldur gjætu þeſſir, án þeſs ad flytja penínga med sér frá Islandi, borgad þad sem þeir yrdu einum eda ödrum um ſkyldugir, med því ſem þeir hefdu til góda hjá ödrum, og ad auki gjætu flutt afgángiñ af peníngunum frá Islandi, í ſladiñ fyrer ad nú er kraſiſt af þeim, ſvo ſem ſkylda, ad þeir ſkuli flytja penínga til landſins. Ad Kaupmenn ei vilja unna Islendſkum ad fá eins mikid í peníngum fyrir vöru þeirra, og þegar þeir taka á móti iñſærdum vörum til betalíngs, er þeſshattar ſök, ſem ei gétur undirkaſtaſt þvíngunar lögum, þar ed höndlunin er frí, hvaraf flýtur, ad verd á vörum, bædi móti vörum og peníngum verdur ei áqvördud nema eptir ſamkomulagi milli hlutadegenda. Agió-taka, eda milligjöf penínga, hvört heldur á Bankóſedlum, ad ſvo miklu leiti ſem þeir á Islandi eru authoríſeradir, og klíngjandi edur annarar adſkiljanlegrar myntar, er óleypleg, þar ed engiñ af Vorum Undirſátum má ſlá hendinni á móti Vorri mynt, ei heldur útiláta edur taka á móti [illegible] ödru verdi eñ Vér höfum uppáſett; e[illegible] urr hér á móti, má ſskin i öllum tilfellum [illegible] rétti afgjöraſt.

Þær í 7da pósti [illegible]ſtu klaganir yfir hjöſnudi í mælir og vigt, [illegible]ega, [illegible]u þær grundadar,

adar, falla til baka til Sýslumannanna egin ansvars, hverjum Vér í Forordníngunni af 18da Júní 1784 höfum uppálagt, sem Embættis skyldu ad hafa tilsjón med mælir og vigt, og án undandráttar hjálpa hverjum einum, sem þar med er óréttur giørdur, til ad ná rétti sínum. Þó höfum Vér í tilliti til þess, sem Oss er leidt fyrir sjónir í kløguninni, látid tilhalda þeim høndlandi ad taka hér eptir á móti allt ad 10 lpdm. til ad vega í senn, sem og veigrunarlaust, þegar þess er óskad, ad láta vega mjøl í ílátum.

Ad brestur hafi verid á timbri og járni, edá ad þessar vørur ei hafa fengist nema fyrir møg mikid verd, hvar yfir klagad er í þeim 3ja pósti, hefir náttúrlega orsøk, nockurn part af háum skipsleigum, og ad því leiti, sem járninu vidvíkur, vegna þeirra óheyrilegu prísa, sem þad afstadar er stigid til. Vér höfum og fengid ad vita, ad meira enn lítilrædi af hvørju fyrir sig er í sumar sendt til Íslands. Prísinn á mjøli og kornvørum, sem klagad er yfir, gétur ei, svo hár sem hann annars verid hefir, á Íslandi, alitist hærri þar, enn hvar annarstadar í Vorum ríkjum og framandi løndum, eptir réttum jøfnudi. Og med því kríngumstædurnar sídan eru umbreyttar, þykjumst Vér vita fyrir víst, ad þad ákjæru-efni muni á þessu ári vera upphafid. Til ad bæta

brest

breſt á lódarſtrengjum, yfir hvørjum klagad er, álítum Vér engar vidgjørdir naudſynlegar, nema ad láta áminna þá høndlandi þar um, ſvo ſem þeir ſjálfir mættu láta ſér vera um þad hugad, ad Islands iñbyggjarar verdi gjørdir byrgir med þeſſa ſvo ómiſſandi grein til fiſkiriiſins.

Sú ótakmarkada høndlun vid allar framandi þjódir, ſem ſókt er um, álítum Vér ecki heldur nú eñ árid 1787 þá høndlunin var frígéfin, kunna ad leyſaſt, med því ſømu rekſemdir, ſem þá øptrudu hlutarins framgángi, enñþá hafa ſtad, eins og þad ei heldur gétur ſkéd án þeſs ad gjøra þeim høndlandi af Vorum undirſátum órett, ſem Vér høfum géfid adgáng til þeſſarar høndlunar i 20 ár, med því ad utiloka framandi þarfrá, hvørjir í trauſti þeſſa Vors Köngl. loford hafa þar eptir hagad ſínum høndlunar Fyrirtækjum. Ecki heldur gétum Vér meir hér eptir heldureñ híngadtil leyſt eina beinleidis høndlun frá Islandi, á framandi ſtødum, án þeſs í Fríhøndlunar-forordníngunni Kap. 2. §. 1. tiltekna ſkyldis, ad ſá ſem heldur ſkip ſitt frá Islandi, ſé í ſélagi med einhvørju naſnkéñdu høndlunarhúſi í einhvørjum af Vorum kaupſtødum annarſtadar eñ á Islandi; en til þeſs ad upphvørja landſins børn til ad hafa hlutdeild í activ høndlun, høfum Vér uñt ſvo mørgum iñfæddum Islendíngum, ſem þeſs hafa farid á leit, ſtyrks af Realiſations-

kaſſa-

kassanum til ad byrja þar med höndlun sína. Ad sönnu er Oss fyrir sjónir leidt, sem hid kröpeugasta medal til ad útvega Islandi activ höndlun, ad taka eiñ kassa af Collectu-peníngum til ad upprétta eitt höndlunar félag, sem deilast skyldi i actiur, hvar í sérhverr Islendíngur (ad Stiptamtmanni og Amtmönnum fráteknum) gæti hast hlutdeild; en á þetta forslag getum Vér ei fallist, þared reynskan hefir sýnt ad þvílík höndlunar-félög aldrei hafa gétad stadist, og ecki þó þau hafi verid stud med monopólískum fríheitum. Hér vid bætist sú athugasemd, ad þessi Félagshöndlun, er fremjast skyldi vid hlidina á þeim, sem væru privat-meñ, i þeim tilgángi ad halda vid makt prísum á islendskum vörum, en oka honum nidur á þeim framandi, þegar hañ syndist ad stiga ofhátt, mundi hætt vid, ádur lángt lidi, ad reka nockra af þessum höndlurum frá landinu, sem ómögulegt er ad sjá hvad eptir sig leidir. En til þess ad því leiti, sem mögulegt er ad ráda bót á skorti á Islands nordurparti, sem þar er hættast vid, vegna þess sá grænlendski rek-is liggur þar opt lángt fram á sumar, svo ei verdur komist þar ad laudi, þá viljum Vér lána þeim höndlandi rentulaust, sem á höndlunarstödunum Eyjafjardar Kaupstad og útliggjarastödunum: Húsavik, Hofsós og Skagaströnd í Nordur Amtinu, sem og Reykjafjardar útliggjara stad í Vestur-Amtinu, vilja hafa stödugt upplag af naudsynja vörum eptir því mikid edur litid, sem upplagid er

stórt

stórt til og á móti því að sama standi í panti. Kommissíónin, sem sókt var um, gétur svo sem óþarfleg ecki leyfst. Íslands þarfir útheimta ei heldur talsmenn hjá Oss. Þá upplýsíngu, sem óskad er eptir, um þess svokallada Íslands opinbera kassa ástand, nl.: hvad mikid mjölbóta- og Collectu-peníngar med söfnudum rentum hlaupi, höfum Vér bodid ad meddeila Vorum Stiptamtmanni og Vorum Amtmönnum á Íslandi. Þeim Sýslumönnum og Próféstum á Voru landi Íslandi, sem undirskrifad hafa þau, undir Landsins nafni, útkomnu klagana-skrif, bjódum Vér hér med ad géfa til vitundar Vora misþócknum yfir þeirra adferd, og vara þá vid, ad láta ei optar finna sig í sömu yfirsjón, nema þeir vilji leida yfir sig forþént straff. Annars vildum Vér hafa áminnt Vora Sýslumenn, náqvæmlegar enn híngad til, ad breyta eptir Höndlunar-forordníngarinnar 1 Kap. §. 12, og 2 Kap. § 13. vidvíkjandi listanna, yfir útfluttar vörur og uppskrift þeirra óseldu, innséndíngu í tíma. Þar hjá bjódum Vér og hér med, ad þeir hédanaf ásamt innséndi töblur yfir almenna prísa á inn- og ut-fluttum vörum. Amtmann n yfir Nordur og Austur-Amtinu Thorarensen, sem Vér sjáum át hefir mesta hlut ad þessari ógèdseldu sök, höfum Vér í egin persónu látid vita Vora mestu misþóknun yfir hans ótilhlýdilegu adgjördum. Amtmanninn í Vestur-Amtinu, Vibe, sem nýkominn til landsins, og þess ástundi ókunnugann, gétum

Vér,

Vér, í tilliti til þessa ad sennu affakad, þó hañ héldi med þeirri iñsendu klegun úr hans Amti, en ecka þar í, ad hañ hefir mælt med sinu skrifi, er ritad var í svoddan formi og þvílikum orda tiltækjum.

Þarámót høfum Vér med ánægju sied, ad Vorum Stiptamtmanni Stephensen, hefir engañvegiñ verid gédfeldt þad kløgunar-skrif, er honum var sendt til ad koma á framfæri, hefir því neitad ad mæla med hinu sama, rádid frá ad útsenda þad til þryckingar, og Embættis-mønnunum í Sudur-Amtinu, sem honum er tiltrúad, til ad falla frá kløguninni, og kalla til baka sínar undirskriftir. Réttilega hefir hañ syrirs..d og gétskad á, ad þau, móti þeim høndlandi brúkudu allt of hørdu orda eiltæki, vildu ei ..asta verda þeim til uppértingar og koma af-stad óendanlegri styrjøld. Hañ hefir líka játad, ad høndlun vid framandi gjætti hvørki ordid landinu til nota ad sinni, né kynni vel ad leysast án þess ad skerda friheit þeirra høndlandi af Vorum Undirsátum, móti Høndlunar-forordningunni, og ad sú tiltekna nýja Kommissión virdtist bædi óvidurqvæmileg og notalaus. Yfir þessum adgjørdum Vors Stiptamtmañs í þ.ssari sek, er samstemma hans embættis skyldu, viljum Vér hér med géfa honum til kynna Vora allranádugustu velþóknun.

Ad lyktum viljum Vér minna Amts Yfirvølgin og alla adra Vora Embættismeñ a Høndlunar-forordníngarinnar Kap. 2. §. 22, og áminna þá ad gjæta þeirrar skyldu, sem hún

þeim

þeim uppáleggur, nefnilega: ad styrkja þá hönd-
landi eptir megni, og med skynsamlegum fortölum
leitast vid ad stipta og vidhalda einingu og sam-
lyndi milli þeirra og innbyggjaranna, hvar undir
allra þeirra gagnsmunir og lucka, ad svo mjög
miklu leiti eru komin. Þennann Vorn allraná-
dugasta Urskurd befölum Vèr ad útleggja á is-
lendsku, og ad prenta útleggínguna, sídan skal
hún á næsta Alþíngi opinberlega lesast og inn-
færast í Alþíngisbókina bædi á Dönsku og Is-
lendsku, samt birtast á manntals-þíngum og
prentud Exemplaria skiptast medal Hreppstjóranna.
Líka skal eitt Exemplar af þessum Vorum á is-
lendska túngu yfirsetta Urskurdi sendast Voru
Rentukammeri ásamt ávísun um hans auglýsingu.
Gésid í Vorum Konúnglega Adseturs-stad
Kaupmannahöfn, þann 29da Sept 1797.

Undir Vorri Könúngl. Hendi og Signeti

Christjan R.

(L. S.)

Reventlow.

J. Hoe. Wormskjold.

Gundelack